# Dagsbrún.

Mánaðarrit
til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

II. | GIMLI, MAN., JÚLÍ 1894. | 7.

## TRÚIN Á GUÐ.

EFTIR M. J. SAVAGE.

–:o:–

### III. AGNOSTICISM EDA GETUM VÉR ÞEKT GUÐ?

(Framh.) Nú skulum vér renna huganum yfir ýmsar aðrar tilraunir til þess að þekkja guð, og vita hvort þær geta heimfærst undir þetta.

Menn segja oss þá frá kraftaverkunum, og standa fast á því, að þau sanni tilveru guðs og sýni oss hvernig hann sé. Ef að kraftaverkin á annað borð hafa nokkurn tíma fyrir komið, þá eru þau eins og hvað annað, sem menn verða að athuga, að sanna, að meta til gildis eftir verðleikum þeirra; og þá má heimfæra þau undir hina vísindalegu aðferð, sem hvað annað.

Menn segja oss, að guð hafi opinberað sjálfan sig í bók einni. En ég fyrir mitt leyti get ekki álitið það satt. Ég man eftir manni einum, sem sagði, að hann gæti ekki trúað því að draugar væru til af því, að hann hefði séð svo mikið af þeim, Ég get ekki heldr trúað á þessar opinberanir af því, að ég hefi séð of mikið af þeim. Hverju eigum vér að trúa, opinberun ritningar vorrar, eða opinberun einhverra annara trúflokka? Það er að minnsta kosti heilt kúgildi af helgum bókum þjóðanna, sem gera kröfu til þess, að vera guðdómlega innblásnar. En setjum nú svo, að guð hafi með eigin hendi skrifað bók fyrir mannkynið. Því er þá svo varið með bók þessa, sem hvern annan hlut, að menn

verða að athuga hana, staðhæfa framsögn hennar, meta gildi hennar, og þá dregst hún inn undir hina vísindalegu aðferð.

Enn segja menn oss, að vér verðum að finna guð í trúnni. En hvað meina þeir þá? Trú er ekki sama og trúgirni. Það er ekki hið sama og að trúa einhverju án allra sannana. Ef svo væri, þá væri það ósamboðið hverjum skyni gæddum manni. En trú — hvað er það? Hvað meina ég er ég segi, að ég trúi eða treysti náunga mínum? Ég meina það, að ég þekki eitthvað til þessa manns, eðlisfar hans, lífsferil hans, breytni hans á umliðna tímanum, hæfileika hans, svo að ég trúi því, að hann muni gjöra það framvegis, sem hann er fær um. Ég hefi trú á honum. Ef að trúin þýðir eitthvað sem er skynsamlegt og heiðarlegt, þá er hún bygð á þekkingu og reynslu umliðna tímans og er þá fullvissa um, að það sem vér trúum muni koma fyrir undir líkum kringumstæðum og áðr fyrri. Setjum nú svo, að ég trúi og treysti guði —, og ég gjöri það, vinir mínir, og álít það skynsamlegt, og að ég geti réttlætt þessa trú mína — hvað meina ég nú? Ég trúi því, að reynsla umliðinna tíma, saga mannkynsins, gefi oss ástæðu til þess, að treysta morgundeginum. Ég stend frammi fyrir hinu óþekta og ég segi: ég trúi og treysti. Og ég geng inn í þetta ský, sem hylr ókomna tímann, þó að ég sjái ekki hið næsta skref, sem fyrir fótum mínum liggr. Ef að mannkynið hefir nú enga áreiðanlega reynslu til þess, að réttlæta þvílíka trú, þá er trú þessi eintóm endileysa, það er vitfirring, sem veldr henni, svo langt er hún frá því að vera skynsamleg. En trú — hvað er það? Það er afleiðing af umliðinni reynslu heimsins. Það er að mæta hinu óþekta og treysta því fyrir reynslu umliðins tíma. Grundvöllrinn undir þessari trú er þá þekking, athygli, reynsla, vísindaleg staðhæfing og sönnun. Þannig dregst þá trúin sjálf inn undir takmörk vísindalegrar skoðunar.

Menn tala og stundum um „hjarta-þekkingu.“ Ég heyri það stöðugt á prestafundum og frá prédikunarstólnum. Prestarnir segja oss að vér verðum að þekkja guð með hjartanu, en ekki með höfðinu. En hvað meina þeir með því? Ég get enga aðra meiningu fengið út úr því, en þá, að ef að ég vil læra að þekkja einhverja aðra veru, sem gædd er lífi og tilfinningu, þá verð ég að komast í tilfinningar-samband við hana. Þessi hjarta-þekking er þá nýtt skilningarvit, hið sjötta, sem setr mig í samband við kraftana, eða lífið umhverfis mig. Ég tek mér Shakespeare í hönd og segi, að ég geti ekki skilið hann

nema að svo miklu leyti sem skáldskaparhæfileikinn í sjálfum mér setr mig í tilfinninga-samband við hann. Þetta er alveg rétt. Þessi tilfinningasemi mín verðr hæfileiki, sem lætr mig skilja þær einkunnir Shakespeares sem ég annars ekki mundi skilja. Hið sama má og segja um alt annað. Vér skulum taka til dæmis eitthvert skilningarvitið. Ef að ég hefði enga tilfinningu, þá gæti ég að eins komist í samband við, eðr þekt nokkurn hluta af bók þessari, sem ég held á, þótt ég hefði bæði sjón, heyrn, lykt og smekk. Ég gæti að eins þekt þá hluti hennar, sem ég hefi hæfileika til að þekkja. Ég get því þekt guð, ég get fengið hugmynd um mikilleika heimsins, að svo miklu leyti sem ég er gæddr þeim tilfinningum, sem geta sett mig í samband við þessa eiginleika heimsins. En hafi hjartað þessa tilfinningu, þá er hún líka verulog. Menn geta athugað hana og skoðað hana, rétt eins og aðrar fornleifar. Menn verða að meta hana og rannsaka hana á andlegan hátt, og skipa henni sæti þar, sem hún á heima. En, þá er einnig þessi „hjarta-þekking“ komin inn undir hina vísindalegu skoðun.

Prófessor Max Muller í London segir oss, að hann trúi því að maðrinn geti fengið beina þekkingu á hinu óendanlega. Ég viðrkenni það. En þessi þekking er þá einnig þekking á því, sem er verulegt. Og svo er um hvað eina, hverju nafni sem það nefnist, sem hugrinn sýslar við; ef hann kemst í nokkurt samband við það, fær nokkra hugmynd um það, þá er það verulegt, eitthvað, sem menn geta skoðað, rannsakað, sannað eftir gildi sínu, hvort heldr það er mikið eða lítið og þá er það komið inn undir hina vísindalegu aðferð. Hún er því hin eina rétta aðferð, til að þekkja nokkuð á himninum uppi, eða á jörðu niðri.

En nú er ég loks kominn að aðalpunktinum, sem ég hefi verið að feta mig að. Getum vér nú með þessari vísindalegu aðferð virkilega þekt guð? Það er hin mikilvæga spurning sem ég ætla að reyna að svara í svo stuttu máli, sem ég get. Þér hafið máske heyrt getið um kenningu þá, sem nú er orðin svo alkunn um heim allan, kenninguna um „hið óþekkjanlega.“ Herbert Spencer hefir flutt þá kenningu. Hann segir, að guð sé óþektr, og menn geti aldrei þekt hann. En hann leggr engu meiri áherslu á það, en ritningin, þar sem hún segir: „Getr þú fundið guð með rannsókn?“ „Hann er hár sem himininn, hvað getr þú gjört?“ „Dýpri en hyldýpið, hvað getr þú vitað?“ Og þetta: „Enginn hefir nokkru sinni guð séð.“ Hann er hinn ótak-

markaði, sem vér aldrei getum gripið til fulls; hann er einlægt ofar hugsunum vorum. En hvað er það nú, sem Herbert Spencer meinar með kenningu sinni um hið „óþekkjanlega" (Unknowable)? Vér skulum nú sjá hvort það útilokar möguleika allrar þekkingar. Hann segir, að þekkingin sé að eins niðrskipun í flokka. Ég skal nú setja fram dæmi til sönnunar því. Setjum nú svo, að ég gangi út á engjar. Vindrinn blæs ekki, af því að það er blæjalogn; en alt fyrir það sé ég hið hávaxna gras hreifast í fjarska. Ég segi þá: Þarna er eitthvað lifandi. Ég set þessa hreifingu í flokk með öðrum hreifingum, sem einkenna líf; og ég skil það, að einhver lifandi skepna er orsök í þessari hreifingu. Ég geng áleiðis og brátt sé ég, að hundr stekkr upp úr grasinu og hleypr eftir enginu. Hvað meina ég nú með því að kalla skepnu þessa hund? Ég hefi ekki komið með neina útskýringu. Ég hefi að eins sett skepnu þessa í flokk þann, sem kallast hundakynið. Ef ég get komist nógu nærri honum, þá get ég sagt, að það sé „Newfoundland-hundr." Ég hefi þá getað heimfært hann undir vissan flokk þessa kyns. Ef ég kemst nú enn þá nær honum, þá get ég séð, hvernig hann er litr. Þannig get ég haldið áfram. En einlægt er ég að halda áfram þessari flokkaskipun. Þetta er nú það sem Herbert Spencer segir að vér skiljum við þekkingu. En hví getum vér þá ekki þekt guð? Svarið verðr: Af þeirri einföldu ástæðu að guð er einn, einasti, ólíkr öllu öðru í heiminum, hinn ótakmarkaði, hinn eilífi. Sökum þessa er ómögulegt að skipa honum niðr í nokkurn flokk af því, að enginn er til jafningi hans að bera hann saman við. Þetta er hin orðlagða kenning um „hið óþekkjanlega."

En útilokar nú þetta möguleika allrar þekkingar? Vér skulum sjá, hvort þessi örðugleiki á ekki við hvað eina í heiminum. Vér skulum taka vorn kærasta vin. Ég veit ekki hvað þessi vinr er „í sjálfu sér." Ég þekki fötin, sem hann vanalega klæðist, ég þekki hið ytra útlit hans, svip hans, hljóminn af röddu hans. Með því að tala við hann kynnist ég hugsunum hans og gáfnalagi. Þegar ég er lengi búinn að vera saman við hann, veit ég, hvers konar maðr hann er. En þetta get ég að eins vitað af því, hvernig hann kemr fram við mig. Ég þekki hann ekki fyllilega, og get aldrei þekt hann til fulls. Ég veit ekki, hvað hann er í raun og veru. Þannig get ég tekið blómið til dæmis, og á alt þetta hið sama við um það. Sjáið rósina, sem ég held á í hendinni. Ég þekki hana ekki fyllilega og get ekki fyllilega þekt

hana. Ég lykta af henni og finn ilm hennar; ég snerti hana og finn að ég snerti stofn eða blað. Ég lít á hana og sé hvernig hún er lit. En alt fyrir það þekki ég ekki alt eðli hennar eðr eiginleika. Þannig vitum vér það fullvel, að skilningarvit vor hafa ekki og geta ekki gripið alt, sem til er í alheiminum. Vér vitum af loftöldum miljónum saman, sem eyrað getr ekki gripið sem hljóð. Vér vitum af öðrum öldum loftsins í miljóna tali, sem augun ekki geta greint sem ljós. Vér höfum og ástæðu til þess að ætla, að alheimrinn sé óendanlega mikill fyrir ofan oss og neðan oss, og alt í kringum oss, án þess að vér getum fest höndur á honum eða skilið hann, af þeirri einföldu ástæðu, að vér höfum enga tilsvarandi hæfileika til þess,að standa í sambandi við hann.

Heimrinn er allr einn. Ég snerti einn, eðr annan af þessum lausu þráðum í þessu óendanlega klæði guðs, sem sí og æ er að vefast, en aldrei er lokið, og þetta leiðir mig augliti til auglitis við hinn ótakmarkaða; við spurningu þá sem enginn getr svarað. Og einmitt þessi hinn sami eiginlegleiki hins „óskiljanlega,“ á sér stað um hvað eina í heiminum. Ég get að eins þekt hlutinn eins og hann kemr mér fyrir sjónir. En ég get ekkert þekt eins og það er í raun og veru. Það er jafn satt um bókina, um kápuna mína, um vin minn, um blómið, eins og um guð.

Enn er annað, sem menn vara oss við, og ég hlýt á að minnast. Menn segja oss nefnilega, að vér verðum að forðast allan „anthropomorphism“ (ɔ: að hugsa sér guð í mannsmynd eða með mannlegum einkunnum). En hvað meina menn með því? Þeir eiga við það, að oss hættir einlægt við, að hugsa oss guð eins og væri hann líkr sjálfum oss. Til þess að skýra, hvað ég á við, skal ég taka dæmi. — Ég hefi engan réttt til þess að segja, að guð áformi, nema ég um leið skýri það orð. En því þá? Af því, að þegar menn áforma eitt eðr annað, þá hugsa menn út einhverja ráðgátu, eitthvað, sem menn ekki sjá fyrir endann á. Menn yfirstíga einhverja erfiðleika, sem eru á vegi þeirra. En nú getum vér ekki hugsað oss nokkra þá ráðgátu eðr fyrirtæki, sem „hinn ótakmarkaði“ sjái ekki fyrir endann á, eða svo að hinn alvísi þurfi að hugsa það út. Því engir örðugleikar liggja á vegi hans. Sökum þessa á það ekki við, að vér segjum að guð áformi. Vér getum ekki heldr sagt, að guð hugsi í sama skilningi og vér hugsum, af því að alt sem vér vitum um hugsunina er bundið við viss störf mannheilans. Guð getr því ekki hugsað eins og maðrinn, nema því að eins, að

hann hafi heila eins og maðrinn. Og þó er því svo varið, að ef að vér erum ekki „anthropomorphic,“ ef að vér ekki tölum um guð í líkingum, dregnum af mannlegum hugsunum og mannlegri reynslu, þá getum vér alls eigi um hann talað. Vér tölum um „hið brosandi land og sólhýru sund.“ Vér tölum um að öldurnar syngi og vindrinn hvíni. Vér segjum að sólin rísi og gangi til viðar. Vér tölum um alheiminn fram og aftr í þessum líkingarfullu orðatiltækjum; og enginn maðr hefir neitt á móti því, að vér tölum þannig um daglega atburði lífsins. Engum manni hættir við að misskilja það. Og ég veit ekki hvernig vér getum varist því, að tala í þvílíkum líkingum um guð. Ég er vissulega nær sannleikanum þegar ég segi, að guð hugsi, en þegar ég segi, að hann hugsi ekki; en þegar ég segi að hann hugsi, þá meina ég þó ekki það, að hann hugsi á sama hátt og menn gjöra. Ef að ég segi, að guð elski, þá á ég ekki við það, að hann elski á sama hátt og ég elska. En þó megum vér ekki hugsa oss, að guð sé eitthvað fyrir neðan hugsun, eða áform, eða kærleika, heldr sem eitthvað óendanlega langt fyrir ofan alla þessa talsmáta og alt það líf sem vér þekkjum. Vér hljótum því að vera „anthropomorphic“ og vér spillum engu með því, ef vér að eins minnumst þess, að mál vort í öllu tilliti er að eins líkingarfult, og þegar vér höfum klætt hugsanir vorar í búning orða, þá höfum vér að eins dregið upp myndir, sem þó ekki fyllilega geta sýnt oss guð eins og hann er.

En nú ætla ég þó að segja það, þrátt fyrir alla speki hinna nýrri tíma og þrátt fyrir alla þá örðugleika, sem ég hefi á minst, að vér getum þekt guð, og að vér þekkjum guð alveg í sama skilningi og vér þekkjum hvað annað í heiminum. Ég get þekt guð rétt eins og ég þekki vin minn, og ég get þekt hann á sama hátt og ég þekki vin minn. Hinn eini mismunr er stigmunr, en ekki tegundarmunr. Ég þekki meira til vinar míns af því, að hann stendr á líkri tröppu og ég, og af því, að hið endanlega getr aldrei úttæmt hið óendanlega. Yðr kann að finnast þetta undarlega sagt og óskynlega, en þér hljótið að kannast við það, að alt, sem ég þekki til eins eða annars af yðr, alt, sem ég þekki til blómsins, til púltsins, til borðsins, til pallsins, til gugganna, sem ljósið streymir inn um, alt, sem ég þekki til sólarinnar, til jarðarinnar undir fótum mínum, eða hvað það nú er, þá þekki ég það af því, hvernig hvað eina kemr mér í ljós, hvernig það opinberar sig fyrir skilningarvitum mínum og skilningshæfileikum. Ég veit

ekki og get aldrei vitað, hvað þetta í raun og veru er í innsta eðli sínu. En nú segja vísindamennirnir oss, að það, sem vér getum þekt vissar og betr en nokkuð annað fyrir utan vora eigin meðvitund, sé tilvera þessa kraftar eða lífs, sem stendr á bak við og opinberar sig í atburðum og gangi heimsins. Ég þekki þessar opinberanir. Ég legg mig fram til að kynna mér þær, ég ber þær saman eina við aðra, ég skipa þeim í flokka, og í stað þess að segja, að vér vitum ekkert um guð, þá finnst mér það vera öldungis tilhlýðilegt fyrir oss að segja, að v é r þ e k k j u m e k k e r t n e m a g u ð, af því, að hvað eina í heiminum er opinberun þessa óendanlega kraftar og lífs, sem vér köllum guð.

Ég ætla enn að bæta dálitlu við. Vér stöndum hér frammi fyrir leyndardóm, sem vér aldrei verðum fyllilega færir um að skýra. Þetta sprettr af hlutarins eðli, það er nauðsyn — og meira að segja blessun, eins og ég bráðlega skal sýna yðr. Setjum svo, að vér stæðum á þilfarinu á skipi einu einhvern þokumorgun úti í miðju Atlantshafi. Vér sjáum kann ske ekki lengra, en tíu fet frá oss, hvert sem vér lítum. Vér sjáum einhverjar skuggamyndir í þokubrúninni. Sjóndeildarhringurinn er ekki stór,en vér getum þekt hann því betr, sem hann er minni. En eftir því, sem sólin hækkar á lofti, lyftir þokunni upp. Sjóndeildarhringrinn stækkar þangað til, að sést um alt skipið og þokan lyftist upp af öllum sjónum. Lengst í burtu úti við sjóndeildarhringinn sjáum vér öldurnar hníga og rísa og önnur skip fara ferða sinna til og frá um sæinn. Þarna stækkar og víkkar hinn sýnilegi heimr: þannig og á sama hátt stækkar líka hinn óþekti og ósýnilegi heimr. Eftir því sem ég þekki meira og get séð meira, en áðr, þá víkkar hringrinn, sem ég get ekki séð út yfir. Setjum svo, að ég standi við fjallsrætr í dal einum. Ég sé ekki nema lítið eitt í kringum mig, og ég skil vel, hví það er. Nú fer ég að klifra upp fjallshlíðina; þá stækkar sjóndeildarhringr minn á alla vegu, og þegar ég er kominn upp á efsta tindinn, þá liggr héraðið alt fyrir fótum mér. Ég sé þá miklu meira, en hringrinn, sem lykr um mig á alla vegu og ég ekki get út yfir séð, hann hefir líka stækkað mjög mikið.

Taki ég nú kíkir góðan og sópi með honum himinhvolfið yfir höfði mér, og þó að ég renni augum yfir miljónir, biljónir mílna, þá verða áhrifin þau, að ég finn betr og betr til þess, að heimarnir teygjast út í það óendanlega og eilífa á alla vegu, og ég get ekki gripið þá, get ekki skilið þá, get ekki þekt þá.

Þannig getum vér ferðast um alla eilífð, numið um alla eilífð og við hvert eitt spor, sem vér stígum, verður þessi leyndardómr alheimsins einlægt stórkostlegri og stórkostlegri. Hvert eitt spor þekkingar eða lærdóms, stækkar hinn óþekta hring umhverfis oss. En er þetta nú nokkur óbærilegr þungi á herðum vorum? Vissulega er þetta eitt hið háleitasta og fyllir oss hinnar gleðilegustu vonar. Ef að alheimrinn væri lítill, og heili minn, hugsunarkraptr og rannsóknarafl væri lítið, samsvarandi þessum litla heimi, ef að ég gæti skoðað hann allan og þekt hann allan, hvað kæmi svo á eftir? — örvænting! Þegar takmarkinu væri náð, væri ekkert meira að þekkja, ekkert meira að hugsa um, ekkert meira að lifa fyrir. Þetta væri dauðadómr heimsins. Ef að ég gæti úttæmt eilífðina, þá hefði ég ekki annað að gjöra, en að þylja yfir mér dauðadóminn. Ódauðleikinn væri þá vitleysa ein; það væri vitleysa að hugsa sér ódauðleika af manni, sem gæti séð til fulls eðli hlutanna. En einmitt af þeirri ástæðu, að vér erum takmarkaðir, en alheimrinn ótakmarkaðr, þá getum vér tekið vængi morgunroðans og flogið til hins ysta hafs, vér getum stokkið frá heimi til heims um hið óendanlega rúm, og einlægt breiðist óendanleikinn alt í kringum oss. Nýjar jarðir, ný störf, nýjar leiðir blasa við oss hvar sem vér förum. Þannig er það skynseminni samkvæmt, að vér lærum, og hugsum, og lifum, og elskum að eilífu. Og alheimrinn umhverfis oss, fyrir neðan oss, og ofan oss, verðr einlægt stórkostlegri og dýrðlegri, og laðar oss, að skoða meira og meira, og opnar fyrir oss einlægt nýja og ótakmarkaða, endalausa eilífð.

---

## ÁSTÆÐUR FYRIR BREYTINGU SKÍRNARINNAR.

Það getr hver séð, sem út í það hugsar, að það var ekki að ástæðu lausu, að vér komum fram með breytingu þá í skírninni, sem stendr í 5. nr. „Dbr.,“ því margir voru orðnir mjög óánægðir með gamla skírnarformið. En af því, að aldrei hafði um það verið talað á fundum safnaðanna og menn höfðu ekki tiltekið neitt annað nýtt, var þó verið að fylgja því í hin ýtrustu lög en óánægjan með það fór einlægt vaxandi. Menn fóru að taka eftir því, að þeim fanst ýmislegt í því ekki vera sannleikanum samkvæmt, og þá vildu menn reyna að forðast sem þeir gátu, að fara með ósannindi í heilagri athöfn.

Það, sem menn einkum fundu sér til var fyrst og fremst inngangrinn. Í honum er það sagt, að vér allir játum það, að *dauðinn sé kominn inn í heiminn fyrir syndina* og dauðinn sé runninn inn til allra manna af því, að allir hafi syndgað. Eftir þessu á það að vera skoðun vor og sannfæring, að mennirnir hafi verið skapaðir ódauðlegir, að enginn dauði hafi verið til í heiminum áðr, en auminginn hún Eva glæptist á eplinu góða. En nú vitum vér það, með öldungis jafnmikilli vissu og vér vitum að vér þurfum föt og fæði, eins og vér vitum að sólin skín á daginn í heiðríku lofti, að dagr kemr á eftir nóttu, að maðr fæðir af sér mann, en ekki dýr, að svo hefir ekki verið. Dauðinn var kominn inn í heiminn *áðr* en maðrinn kom í hann. Vér þurfum eigi annað, en að líta á kolalögin til þess, að sjá það, og þó að hin gamla, æruverða, hebreska bók segi þetta, að dauðinn sé kominn inn í heiminn fyrir syndina, þá getum vér ekki lagt meira upp úr því, en annari þjóðsögu, þegar vér vitum betr.

Þá fanst oss það eitthvað óviðkunnanlegt að segja: „að guð hafi útvalið oss áðr, en veröldin var grundvölluð, að vér skyldum vera heilagir og óstraffanlegir fyrir hans augsýn í kærleikanum“. Þetta er reyndar samkvæmt Augsborgarjátningunni, sem gjörir skírnina að sáluhjálparskilyrði, sem segir að allir óskírðir fari í hið eilífa bál. En vér trúum því ekki, og finst oss þetta draga keim af hinni gömlu hugmynd, sem lætr þá þrjá, Guð og Krist og Heilagan Anda, vera að bollaleggja það, hvern með öðrum, hvernig þeir skyldu nú hafa það, þegar öll þeirra sköpun, alt þeirra heimssmíði væri farið út um þúfur. Svo var það, að ef allir, sem skírðust voru um leið orðnir heilagir og óstraffanlegir, þá fanst oss ekki vandlifað í heiminum, og oss fanst það ekki koma vel heim við það, er klerkar hóta oss í nafni guðs og Krists og heil. Anda eilífum kvölum.

Þá er verið að hnoða gömlu setningunni hans Davíðs inn í skírnina, þessari: „Í synd em eg fæddur og í synd gat mín móðir mig“. Það er eins og verið sé að atyrða móðurina fyrir að hafa fætt barnið, og sletta því framan í hana, að þar hafi hún drýgt stóra synd. Þetta kemr illa heim við það, sem ritning Hebrea segir, að guð hafi sagt manninum að aukast og margfaldast og uppfylla jörðina. Það kemr illa heim við það, sem haldið er fram í ritningunni og giftingaforminu, að guð hafi stofnað hjónabandið. Guð á að bjóða konunni að

fæða af sér afkvæmi, en þó drýgir hún synd, er hún hlýðir þessu boði. Eitthvað skrítið!

En aðalatriðið, sem vér höfum á móti skírninni er þó sjálft skírnarheitið, sem kallað er. Það er það, að láta lesa yfir barninu langa kafla, og segja svo og láta frændr eðr foreldra barnsins hátíðlega lofa og skuldbinda barnið til þess, að trúa öllu þessu, eða fara í eilífar kvalir að öðrum kosti; því að, þó það sé ekki fram tekið í skírninni sjálfri eða í trúarjátningunni, þá er þó búið að ganga út frá því, sem sjálfsögðu í því, sem lesið er upp á undan. Ef menn nú hugsuðu rækilega út í þetta, ef menn hristu dálítið af sér guðfræðissótið klerkanna og reyndu nú að fara að hugsa einu sinni, þá hygg ég að menn kynnu, ef til vill, að fara að renna grun í, að þetta væri glæpi næst. Mönnum þykir ég kann ske vera stórorðr núna, þeim guðsmönnunum og máttarstólpum þeirra. En ef þeir hugsa vel út í, hvað hér hefir fram farið um fleiri aldir, þá mun þeim valla sýnast það svo fagrt. Barnið er þarna skynsemdarlaust, mállaust, óviti, og það er látið gjöra skuldbindingu, afarmikla skuldbindingu, og það svoleiðis lagaða, að flestum ef ekki öllum er ómögulegt að uppfylla hana. Barnið er nefnilega ekki skírt nema því að eins, að það lofi eða aðrir fyrir þess hönd lofi því, að uppfylla þenna sáttmála. Vér skulum nú taka annað dæmi til þess, að skýra þetta, því að þetta er orðið svo gróið inn í hugsunarhátt manna, að menn eru sem blindir og geta ekki séð það nema frá einni hlið. Hugsum oss að einhver okkar væri sofandi, þá kemr lögmaðr að honum með votta og les yfir honum dómadagsskjal, og stendr í því, að hann lofi því og skuldbindi sig til þess, að selja af hendi allar eigur sínar, ef hann ekki gjöri það hóta þeir að deyða hann. Maðrinn lagðist þreyttr út af og sefr væran og veit ekkert, hvað á gengr, en nú koma fram vinir hans og til þess að frelsa hann játa þeir öllu fyrir hans hönd og lofa því hátíðlega að sjá um, að hann uppfylli það, þegar hann vaknar. Nú vaknar aumingja maðrinn og fréttir að búið sé að svifta sig eigum sínum. Eins er því varið með barnið, þegar það vaknar til vitsins, þá sér það að búið er að svifta það frelsi sínu. Er það nú réttlætinu samkvæmt, að láta það játa þessu, að láta það ganga undir þá skuldbindingu, sem getr verið því svo ógeðfeld, þegar það kemr til vits og ára, að það kann ske aldrei geti gleymt því alla

sína æfi, hvað miklu ranglæti það hafi verið beitt í bernsku. Því maðr getr hugsað sér það, að því finnist það vera skylda sín að uppfylla eftir mætti loforð þau, sem aðrir gjörðu fyrir þess hönd. Og hvað skuldbindinguna sjálfa snertir, þá getr það oft ekki uppfylt hana hversu mikinn vilja sem það hefði á því. Menn vita svo, að mönnum er ómögulegt að trúa því, sem þeir vita og eru sannfærðir um að eigi er satt. En til hvers er þá loforð þetta? Er það til þess að láta barnið dragast með lýgi alli alla sína daga? En foreldrarnir eða skírnarvottarnir, sem lofa þessu fyrir barnsins hönd. Hvernig geta þeir með góðri samvisku lofað því, að barnið skuli trúa einu eðr öðru 20, 30—50 árum seinna, mörgum árum eftir að þeir sjálfir eru dauðir? Fyrst og fremst er það, að þeim er það ómögulegt, og þeir hljóta að vita það sjálfir að þeir fara með ósannindi, er þeir lofa því, sem þeim er ómögulegt að efna. Mér þætti fróðlegt að sjá þann mann, sem gæti fengið mig til að trúa á eilíft víti eða djöful, eða syndafall eða syndaflóð eða þrjá guði. Og svo er um hvern og einn. En nú munu menn segja, að þetta sé eigi meiningin, guðfeðginin eða foreldrarnir lofi því, að eins, að uppfræða barnið í þessum sannindum. En er þá skírnin humbug eitt, eru loforð þessi eigi loforð. Þegar spurt er: „Afneitar þú djöflinum", þegar spurt er: „trúir þú á guð, á Krist, sem fór niðr til vítis, á guð heilagan Anda o. s. fsv." er það þá kómedía eða hvað? Þegar ovo er spurt: „Vilt þú upp á þessa trú vera skírðr" þá segir sá, sem barninu heldr undir skírn: „já", en með þessu jái, hvað gjörir hann? Hvað gjörir hann annað, en að lofa guði því,—ábyrgjast það fyrir guði, að barnið trúi einmitt eins og upphefir lesið verið eðr eftir öllum kreddum hinnar lúþersku trúar. Ef það er á annað borð hægt að lofa upp í ermina á sér, þá á það hér við. En það er meira; þetta er það, sem á ensku mætti kalla „dishonesty", „fraud", það er óheiðarlegt, um leið og maðurinn eða konan, sem á barninu heldr segir já, þá fara þau með ósannindi, því að þau mega vita það, ef að hugsunarkraftr þeirra er nokkuð æðri en dýrslegr, að þau geta ekki efnt þetta, og þessi ósannindi fara þau með í heilagri athöfn. En er það nú samboðið heiðarlegum mönnum að gjöra það? Getr nokkur ætlað, að þetta sé vegleg guðsdýrkun? Ég skal taka það besta dæmi sem hægt er í þessu tilliti, en það er þegar foreldrar eða aðstandendr

barnsins, trúa fastlega eftir trúarjátningunni eftir Augsborgarjátningunni, trúa því, að allir þeir fari illa, sem ekki eru skírðir og því ver þeir, sem ganga frá þessu loforði, sem þó var með nauðung af þeim tekið. En þá kemr þó að minsta kosti það fram, að þeir lofa meiru, en þeir geta efnt. En nú er það í sannleika svo að margr maðrinn er farinn að efast um eitt eðr annað af þessum trúarskilyrðum, kann ske fleiri, og þá gjörir hann rangt að taka upp á sig þessa ábyrgð, sem hann ekki getr efnt, og það, sem verra er að vinna þetta loforð á hátíðlegan hátt, mitt í heilagri athöfn. Betra að lofa minna og efna það, eða að sjá að minnsta kosti mögulegleika á því. Ef menn nú fara lengra út í það og skoða hvaða áhrif þess konar aðferð hefir á hugsunarhátt þjóðarinnar, þá eru þau sannarlega ekki glæsileg. Þegar barnið vex upp, ber það sí og æ þessa byrði á bakinu og getr ekki losast við hana, meðvitundina um það, að undir eins og það kom í heiminn byrjaði þessi tvöfeldni, óhreinleiki, þessi loforð sem menn aldrei ætluðu sér að efna eða gátu ekki efnt og vissu að þeir gátu ekki efnt. Nú verðr það annaðhvort að gjöra, að rjúfa þenna sáttmála, sem gjörðr var að því fornspurðu, eða þá að trúa, hvort sem það getr eða ekki, það svitnar undan áreynslunni að nauðga skynsemi sinni, það sér þó að lokum að það verðr að hætta við þá tilraun. En þá kemr annað, annaðhvort verðr það að ganga með lygi í hjarta sínu alla sína daga, ef að Það þykist trúa þvert á móti sannfæringu sinni eða læst trúa öðru en það trúir, og þá hræsnar það bæði fyrir guði og mönnum. En gjöri menn það, þá er það sannarlega gróðrarstía fyrir lygi og fals og allskonar óhreinleika í orði og verki. Þeir menn eru mjög líklegir til þess að kalla ekki alt ömmu sína. Ég vildi af öllu hjarta óska að þeir væru færri, en þeir eru. Ef menn vilja nú forðast þessa hræsni, sem niðrlægir manninn í siðferðislegu tilliti, sem gjörir hann auk þess að *aumingja* í augum ærlegra drengja, þá er ekki um annað fyrir hann að gjöra en að kasta þessu nauðungarheiti. Það er alveg sama þó hann hafi staðfest það með fermingu sinni, því alt að ferminguuni var róið að því öllum árum, að verja hann öllum þeim áhrifum, öllum þeim hugmyndum, sem gátu vakið hjá honum efa um réttmæti þessarar játningar, honum var ekki gefinn kostr á, að þekkja annað. Augu hans voru byrgð, og blindandi var hann út

í ferminguna leiddr. Sökin var þá ekki hjá honum, heldr þeim, sem leiddu hann, en hún liggr hjá honum eftir að augu hans opnast. Þetta er heiðarlegi maðrinn skyldr að gjöra eftir að augu hans hafa opnuð verið, ef hann vill halda sóma sínum og drengskap, ef hann vill halda tign sinni óskertri.

Vér getum af framansögðum ástæðum eigi átt lengr við þetta. Vér getum eigi tekið upp á oss þessa ábyrgð, en vér viljum helga barnið guði játningarlaust og ítreka það með fermingunni, en þó svo, að barnið ekki heldr þá gjöri neina trúarjátningu aðra, en að lofa að leitast við, að lifa eftir Krists kenningu og dæmi. að leita að sannleikanum og hafa einurð til að játa hann.

Hvað breytingunni á giftingarforminu líðr, þá er fyrstu spurningunni slept. Það sér hver maðr að það er að forða mönnum við að skrökva, að skrökva því að menn hafi ráðfært sig við frændr og vini, ef menn hafa ekki gjört það; kann ske eigi átt neina frændr og vini til að ráðgast um við, forða mönnum frá því að segja, að menn hafi ráðfært sig við sitt eigið hjarta, ef að það skyldi nú eigi vera tilfellið, eða að segja, að menn hafi ráðfært sig við guð, ef að svo kynni að vera,að menn hefðu gleymt því. Svo er og slept upplestrinum úr Móses og Páli um undirgefni konunnar og svo frv.. Ég held flestum komi saman um að það megi missa sig og get ég eigi verið að fara frekari orðum um það.

---

# Ferming.

Kæru börn!

Í nafni guðs vors elskulega föður á himnum helgum vér yðr nú hans og sannleikans og réttlætisins þjónustu. Heit yðar er ekki bundið við vissar setningar eða trúarjátningar heldr loforð um að þjóna sannleikanum, kærleikanum og dygðunum alla ykkar daga. Það er starf, sem getr gjört líf yðar heilagt á hverri stundu, í hverju helst ástandi í gleði og skemtunum, í sorg og eymd. Þér eruð guðs eigin börn, sem bróðr bindist þér Kristi með þeim ein-

lægum ásetningi að líkast honum og lifa eftir honum, hans kenningu og dæmi. Að leita og finna sannleikann, að hjálpa meðbræðrum yðar til þess að verða farsælli og betri, það er lífsstarfið, sem fyrir yðr liggr.

Ég spyr þig N. N.

*Vilt þú lofa því í alvöru og einlægni að gjöra alt sem þú getr til þess að fylgja Kristi, að hafna allri villu og öllu illu, en reyna af fremsta megni að vinna að því að gjöra heiminn betri en hann er?*

Svar: *Já.*

Gef mér þá hönd þína upp á þetta.

[Prestr leggr hönd á höfuð barnsins og segir:]

Vér tökum þig nú í samfélag þeirra, sem vilja leita guðs og sannleikans, verið velkominn í þann hóp. Sá guð sem skapað hefir heiminn og viðheldr honum hann veiti þér fullan mælir sinnar náðar. Hann leiði þig og styrki til að verða trúr og sannr verkamaðr í sínum víngarði.

AMEN.

---

# Smávegis.

## CHRISHNA.

Guðinn Vishnu (í Brahma trú) átti á 600 ára fresti að stíga niðr af himni og taka á sig holdlega mynd. Í 8. sinni, sem holdtekja þessi fór fram nefndist hann Chrishna, og er sagt frá því á þessa leið í Baghavat Gita einni af Vedabókunum:

Kvöld eitt var meyjan Devanaguy að biðjast fyrir, heyrði hún þá hljómfagran, inndælan og himneskan söng. Kom þá guðinn Vishnu til hennar, yfirskygði hana og fékk hún getnað. Seinna fylgdi sendimaðr einn henni í gripahús nokkurt. Ól hún þar barnið og var því nafn gefið og kallað Chrishna. Hjarðmenn komu og heimsóttu þau og krupu fram fyrir barninu og tilbáðu það. En er hinn drottnandi hardstjóri í Madura (Cansa) heyrði um fæðingu barns-

ins, þá leitaðist hann við að fyrirkoma honum og lét því það boð útganga, að deyða öll ungbörn karlkyns, sem fæðst höfðu sömu nótt og Chrishna. Þetta átti að ske ekki seinna, en 1200 árum fyrir Krists burð lengst austr í Asíu. Hálfskrítið.—

Lúkas 4, 5—7. „Þar eftir fór djöfullinn með hann (Krist) upp á ofurhátt fjall. og sýndi honum þaðan á augabragði öll ríki veraldarinnar og sagði: alt þetta veldi mun eg gefa þér og vegsemd þess, því alt er mér það í vald gefið, svo eg get gefið það hverjum sem eg vil, skal alt þetta vera þín eign, ef þú fellur fram og tilbiður mig". — —En hvenær var það nú, að djöfullinn átti öll ríki veraldarinnar? En sé nú svo að þetta hafi verið satt, að hann hafi boðið Kristi þetta eins og ritningin segir og haft vald til þess, átt alt saman löndin, akrana, borgirnar, húsin, skepnurnar, mennnina þá vitum vér, að Kristr þáði ekki þetta boð; en með því að vér hvergi höfum séð afsalsbréf frá kölska fyrir þessu, þá ætti hann að eiga það alt enn, konga og keisara, preláta og presta, kirkjufeðr og helga menn. En er það ekki ósköp að vita eða hugsa sér það að kölski skuli eiga blessaða prestana. Það getr þó aldrei verið og því held ég að eitthvað sé bogið við þetta alt saman.

---

Nýjir kaupendr að II. árg. Dagsbrúnar fá í kaupbæti myndina Faðir vor. Þeir geta og fengið I. árg. Dbr. fyrir hálfvirði, að eins 50 cents.

---

Bóksala G. M. Thompson hefir til sölu gnægtir af ritföngum, svo sem: Skrifpappír af mörgum tegundum og stærðum.—Umslög sömuleiðis.—Blýanta með strokleðri.—Blýanta, rauða og bláa.—Penna af mörgum tegundum.—Ágætt blek.—Writing Tablet.—Letter Book.—Margar tegundir reikningshausa og fl. o. fl. —— Alt með mjög lágu verði. ——

---

ÞJÓÐVILJINN UNGI, III.ár, árg. 40 nr. á $1,00. Ritstj. Skúli Thoroddsen. Hann er frjálslyndasta íslenzka blaðið, flytr lesendum sínum innlendar og útlendar fréttir, fróðlegar, gagnlegar og ljóst samdar ritgjörðir, bókafregnir og fl. Bóksala G. M. Thompson. — Gimli, Man.

---

Ókeypis fá nýjir kaupendr að 46. árgangi ÞJÓÐÓLFS 1894:
1. Sögusöfn Þjóðólfs V. og VI., 278 bls.
2. Söguna af Þuríði formanni og Kambsránsmönnum, 1. hefti.
3. Sömu sögu, 2. hefti, er verðr prentuð á næstkomandi vori. Alls yfir 400 bls. ókeypis. Verð árg. $1,50. — Útsölumaðr G. M. Thompson.

---

Útsölumenn SUNNANFARA í Vestrheimi eru:
Sigfús Bergmann, Garðar, N.D.; G. S. Sigurðsson, Minneota, Minn., og Bóksala G. M. Thompson. —— —— Gimli, Man.

---

STEFNIR, 30 tölublöð um árið, kostar $0,75, gefinn út á Akureyri. Flytr glöggastar fréttir af Norðrlandi. Frjálslynt blað, fróðlegt og skemtilegt.
Bóksala G. M. Thompson. —— —— Gimli, Man.

---

DRAUPNIR, ársrit, tvö hefti, hvert á $0,40. Safn af skemtisögum. Útg. Torfh. Þ. Holm. Fæst hjá G. M. Thompson. — — Gimli, Manitoba.

---

Nýjir kaupendr ÍSAFOLDAR 1894, fá í kaupbæti:
1. Sögusafn Ísafoldar 1892, 270 bls., með 17 ágætum skemtisögum.
2. Sögusafn Ísafoldar 1893, 176 bls., með 13 ágætum skemtisögum.
3. Pax vobiscum: Friðr sé með yðr, eftir hinn heimsfræga snilling prófessor H. Drummond, innbundið (48 bls.).

BÓKSALA G. M. THOMPSON. —— —— GIMLI, MAN.

---

G. M. Thompson hefir á hendi alla afgreiðslu á Dagsbrún og annast fjármál hennar. Kaupendr snúi sér því til hans, bæði með pantanir og borganir

---

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún“ skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

---

„DAGSBRÚN“ kemr út að minsta kosti einu sinni í mánuði.

Árgangrinn kostar í Vestrheimi ........................ $1,00
Sendr til Íslands en borgaðr hér ...................... $0,75
Sendr til Íslands en borgaðr þar ...................... Kr. 2,00

—— Verð árgangsins greiðist hvervetna fyrir fram. ——

Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, 572 Alexander Ave., Winnipeg, Man. Canada.

---

Ritstjóri: Magn. J. Skaptason.

Prentsmiðja G. M. Thompson.